Ættartala og Lífs-saga

Sál.

Biskups-Frúr

# Þórunnar Ólafsdóttur,

upplesin

við hennar Jardarfør ad Skálholti,

þann 2. dag Martii, 1786.





Prentud í Kaupmannahøfn 1788.

hiá Jóhanni Rúdólphi Thiele.

Spekinnar Bókar 4. Kap. v. 7. 13. 14.

Þó hinn Rettláti devi offnemma, þá er hann þó í hvild. Hann vard snart algiørdr og hafdi fyllt mørg ár; þvíad hanns Sál þóknadiz Gudi, þar fyrir tók Hann hann svo snemma, frá þessu vonda lífi.



Sáluga Frú Þórunn Olafsdóttir er fædd í þennan heim ad Leirá í Borgarfirdi þann 6ta dag Júlii Mánadar 1764, af þeim ædstu og bestu ættum í voru Födurlandi; Er oflángt ad telia alla hennar Lángfedga, sem Stórhöfdíngiar hafa verit; því þá mætti nálega telia alla mesta-háttar menn, sem á Íslandi hafa verit frá landsins fyrstu byggíngu. En þar þat bædi er loflegt ad minnaz þeirra framlidnu forfedra, hvorra blód, og á stundum dygdir, dreifaz út til þeim verdugra nidia, hvar-



med endurminníng þeirra mannkosta hiá hinum eptirlifandi uppqveikir sómasamlega eptirlaungun þeim ad líkiaz; líka og er þat hiá oss landsvani vid útfør Framlidinna, sem af gofugu fólki eru komnir, at rekia nockut af ættum þeirra; þá er þat hér því hægra, sem um margar hinar beztu ættir er at velia:

Hennar Fadir er sá góðfrægi, enn nú lifandi Hofdíngi, er sárt þreyir sína elskuluguſtu Dóttur, Háedla og Velborinn Hra. Amtmadrinn **Olafr Stephánsson**, sonr Síra Stepháns á Hoskuldsstødum, sonar Prófaſtſins Sra. Olafs á Hrafnagili, Gudmundssonar. Módir Sra. Stepháns á Høskullds-stødum, en Qvinna Prófaſtſins Sra. Olafs Gudmundssonar á Hrafnagili var Anna, dóttir þess ypparliga skállds Sra. Stepháns í Vallanesi, Olafssonar Prófasts í Múla þíngi, og Prests ad Kirkiubæ í Túngu, Einarssonar Officialis og Prests ad Heydølum,





dølum, nafnfrægs Psálmaskállds og ættsælasta manns. Qvinna Sra. Stepháns í Vallanesi var Gudrún dóttir Þorvallds á Audbrecku, bródur Halldórs Løgmanns; voru þeir synir Olafs Klausturhalldara á Mødruvalla-Klaustri, sonar Jóns í Búdardal, Sigurdssonar og svo í Búdardal, Oddssonar, Geirmundssonar, Olafssonar Tóna, Þorleifssonar; voru allir þessir Lángfedgar í stærstu høfdíngia- og ríkismanna-tølu á Vestfiørdum í þeirra tíd. Módir Gudrúnar Þorvalldsdóttur, qvinnu Sra. Stepháns í Vallanesi var Halldóra yngri dóttir þess nafnfræga og ættsæla høfdíngia og Sýslumanns í Skagafiardar sýslu Jóns á Holltastødum, sonar Sra. Biørns á Melstad Officialis, sonar Jóns Biskups á Hólum Arasonar. Módir Jóns Bónda á Holltastødum var Steinunn, dóttir Jóns á Svalbardi, Magnússonar, Þórkélssonar, Prests í Laufási, Gudbiartssonar ogsvo Prests í Laufási. En módir Magnúsar á Svalbardi Þorkéllssonar, var

 Þórdís



Þórdís Sigurdardóttir, frá Svalbardi. Qvinna Fyrrnefnds Magnúsa á Svalbardi, var Christín dóttir Ejólfs Riddara, Arnfinnssonar ogsvo Riddara, sonar Þorsteins Lénsherra yfir Islandi og Løgmanns, Ejólfssonar. Var Qvinna Þorsteins Løgmanns Arnþrúdur dóttir Magnúsa kallads Svalbards, hvørs ætt beinleidis rakin verdr upp til Lándnáms og margra kóngborinna manna í fyrndinni. Qvinna Ejólfs Riddara var Snælaug Gudnadóttir frá Hóli í Bolúngarvík, en Gudni var sonr Odds Lepps Løgmanns Þórdarsonar. Qvinna Jóns Magnússonar á Svalbardi, en módir Steinunnar á Melstad, var Ragnheidur Pétursdóttir, Loptssonar á Stadarhóli, Ormssonar, Loptssonar Ríka á Modruvøllum; Atti sá Ormur Loptsson, er héllt Stadarhól, Solveigu dóttur Þorleifs í Vatnsfirdi, og Christínar dóttur Biorns Riddara Jórsalafara, sonar Einars Riddara, sonar Eiríks Riddara, Sveinbiarnarsonar og má þá Vatnsfiardar-ætt

telia





telia til margra Nordur-álfunnar Kónga í fyrndinni og Íslands Landnáms-manna. Qvinna Péturs Loptssonar, en módir Ragnheidar á Svalbardi, var Sigrídur dóttir Þorsteins á Reinir, sonar Helga Løgmanns Ejólfssonar. Qvinna Jóns á Holltastødum, en módir Halldóru á Audbrecku, var Gudrún, dóttir þess nafnfræga Hofdíngia Arna á Hlídarenda, Gíslasonar, Hákonarsonar, Hallssonar, Sveinssonar, Jónssonar, er kalladr var Lángr í Axarfirdi, og Lángs-ætt er afkomin. Qvinna Gísla Hákonarsonar var Ingibiørg dóttir Gríms á Mødruvøllum, Pálssonar, Brandssonar Løgmanns; sonar þess nafnfræga Officialis á Grenjadarstad Sra. Jóns Pálssonar, og Þórunnar dóttur Finnboga hins gamla á Asi í Kéllduhverfi, sonar strax-nefnds Jóns Lángs. Qvinna Gríms Pálssonar á Mødruvøllum var Helga dóttir Narfa Þorvallds-sonar og Þurídar dóttur Biørns Ríka í Vatnsfirdi, Þorleifssonar. Qvinna Arna



Gíslasonar á Hlídarenda var Gudrún einbirni þess stór-ríka hofdíngia Sæmundar Eiríkssonar á Asi í Holltum og Gudrídar dóttur Vigfúsa, Løgmanns og Hirdstióra á Islandi, sonar Erlends Erlendssonar af Kolbeinstada-ætt, sem upp verdr rakin til Landnáms-manna. Qvinna Erlends Erlendssonar var Gudrídur Þorvardsdóttir, Loptssonar hins Ríka og Margrétar dóttur Hirdstiórans Vigfúsa Hólm, Ivarssonar Hólm, ogsvo Hirdstióra; En Qvinna Hirdstiórans Vigfúsa Erlendssonar var Gudrún dóttir Páls á Skardi, sonar Jóns Asgeirssonar, og Christínar dóttur Gudna Oddssonar Lepps, Løgmanns Þórdarsonar. Qvinna Gudna var Þorbiørg Gudmundsdóttir, systir Rafns Løgmanns. En Qvinna Páls á Skardi var Solveig dóttir Biørns Ríka í Vatnsfirdi, Þorleifssonar og Olafar Loptsdóttur ens Ríka á Mødruvollum; var þessi Loptur, af hvorium vor í Gudi burtsofnada Frú

Þór-





Þórunn Olafsdóttir var í svo margar ættir komin, Riddari ad nafnbót, sonr Guttorms Örnólfssonar á Stadarfelli og Sophíu Eiríksdóttur; ens Ríka, sonar Magnúsa Svalbarda, hvers fyrr var getid. En módir Sophíu var Ingerídur Loptsdóttir, Þórdarsonar og Málmfrídar Arnadóttur úr Askey, hver kynkvísl upprunnin var af þeirri stóru Askeyar-ætt í Norvegi. Qvinna Sigurdar Oddssonar í Búdardal, hvers fyrr var getid, var Steinunn systir Orms Lögmanns, dóttir Sturlu Þórdarsonar á Stadarfelli og Gudlaugar dóttur Finnboga Lögmanns Jónssónar, bródr Brands Lögmanns, hvers ádr er getid. En Qvinna Finnboga Lögmanns var Málmfrídur dóttir Torfa Riddara Arasonar og Akra-Christínar, dóttur Þorsteinns Lögmanns Olafssonar; En módir Sturlu Þórdarsonar var Gudfinna dóttir fyrr-talinna Jóns Asgeirssonar og Christínar Gudnadóttur, Oddssonar Lögmanns Lepps. Qvinna Jóns Sigurdssonar í Búd-



ardal var Margrét dóttir Eiríks í Asgardi, sem Asgards-ætt er askomin, Gudmundssonar, Andréssonar, Gudmundssonar ens Ríka, Arasonar, bródr fyrrnefnds Rafns Løgmanns Gudmundssonar. Qvinna Gudmundar Andréssonar var Jardþrúdur, dóttir Þorleifs Hirdstióra í Vatnsfirdi, sonar Biørns Ríka og Ólofar Loptsdóttur hins Ríka, hvørra beggia ættir eru fyrri taldar. En Qvinna Hirdstiórans Þorleifs Biørnssonar var Ingvelldur, dóttir Helga Løgmanns Ejólfssonar og fyrrnefndrar Akra-Christínar. Qvinna Eiríks Gudmundssonar í Asgardi var Gudrún dóttir Gunnlaugs Teitssonar hins Ríka í Biarnanesi. Qvinna Olafs Jónssonar Klausturhalldara, en módir Þorvallds á Audbrecku, var Þórunn, dóttir Benedicts Ríka á Mødruvøllum, Halldórssonar Prests, er einnin héllt Mødruvalla-klaustr, Benedictssonar, Grímssonar á Mødruvøllum í Eyiafirdi, Pálssonar sonar Brands Løgmanns Jónssonar. Qvinna Benedicts

Ríka

Ríka var Valgérdur Biornsdóttir, Þorvalldssonar á Æsustodum og Herdísar Gísladóttur, hálf-systur Arna á Hlídarenda.

Módir Hra. Amtmannsins Olafs Stephánssonar, en Fodurmódir Frúr sál. Þórunnar Olafsdóttur, var Ragnheidur, dóttir þess gofuga Hofdíngia, Magnúsa á Stórahóli, sonar Biorns á Stórahóli, Sýslumanns í Eyiafiardarsýslu, sonar Páls Klausturhalldara á Þíngeyrum og Sýslumanns í Húnavatns þíngi, sonar Gudbrands Biskups á Hólum, Þorlákssonar Prests, Hallgrímssonar, Sveinbiarnarsonar Officialis og Prests ad Múla, hvors ádr er gétid, Þórdarsonar. Módir þessa Sra. Sveinbiarnar var Þordís dóttir Finnboga hins gamla á Ási í Kélldubverfi, sonar Jóns Lángs. Qvinna Sra. Þorláks, en módir Gudbrands Biskups, var Helga, dóttir Jóns Logmanns, Sigmundssonar Prests, Steindórssonar. En Solveig módir Jóns Logmanns var dóttir Þorleifs Ríka Arnasonar og Vatnsfiardar-

Christ-



Christínar, hvorrar ádr er gétid. Ekta-hústrú Gudbrands Biskups var Halldóra dóttir Arna Gíslasonar á Hlídarenda; En Qvinna Sýslumannsins Páls Gudbrands-sonar var Sigrídur dóttir Biorns Sýslu-manns, sonar Benedicts Ríka Halldórs-sonar, systir Magnúsa Logmanns Biorns-sonar. En Qvinna Biorns Benedicts-sonar var Elen dóttir Páls á Stadarhóli, sonar margnefds Jóns Magnússonar á Svalbardi. Módir Elenar Pálsdóttur var Helga, dóttir Ara Logmanns, Jóns-sonar Biskups, Arasonar. En Ekta-Hú-strú Ara Logmanns var Halldóra, dóttir Þorleifs Grímssonar á Modruvollum. Ektaqvinna Sýslumannsins Biorns Páls-sonar á Stórahóli var Ragnheidur, dóttir Magnúsa á Reykhólum, Arason-ar í Ogri Sýslumanns, Magnússonar Sýslumanns á Bæ á Raudasandi, Jóns-sonar á Svalbardi, Magnússonar, sem strax var nefndur. Ektaqvinna Magnúsa Jónssonar var Ragnheidur dóttir Eggerts

Log-

Logmanns og Riddara, Hannessonar Ridd-ara og Hirdstióra, Eggertssonar Riddara og Logmanns í Víkinni í Norvegi. Ekta-qvinna Hannesar Riddara og Hirdstióra var Gudrún, dóttir Biorns í Ogri, Gudna-sonar, Jónssonar, Asgeirssonar, hvors fyrr var getid. Módir Biorns í Ogri var Þóra dóttir Biorns Ríka Þorleifs-sonar; En hans Ektaqvinna var Ragn-hilldur dóttir Biarna á Kétilstodum og Ragnhilldar dóttur Þorvardar á Modru-vollum, Loptssonar Ríka, og Margrétar dóttur Hirdstiórans Vigfúsa Hólm. Ekta-qvinna Sýslumannsins Ara Magnússonar á Ogri var Christín, dóttir Gudbrands Biskups á Hólum. En Ektaqvinna Magn-úsa Arasonar á Reykhólum var Þórunn hin Ríka, Jónsdóttir Sýslumanns í Þing-eyiar þíngi, Vigfússonar ogsvo Sýslu-manns í somu sýslu, Þorsteinssonar, Finn-bogasonar Logmanns, hvors ádr var getid, Jónssonar. Ektaqvinna Þorsteins Finn-bogasonar í Hafrafellstúngu, var Cecelia,

dóttir



dóttir Torfa Ríka í Klofa, Jónssonar; voru þeir fedgar hvorr eptir annan Sýslumenn í Arnes-sýslu; Olafssonar, Loptssonar, ens Ríka á Modruvollum. Ektaqvinna Olafs Loptssonar var Gudrún, dóttir Rafns Løgmanns Gudmundssonar. Qvinna Sýslumannsins Jóns Olafssonar var Ingibiorg dóttir Eiríks í Asi í Holltum, eins hins gøfugasta og stór-ríkasta manns í þá tíd. En Ektaqvinna Torfa Ríka í Klofa, var Helga Gudnadóttir frá Øgri og Þóru, dóttur Biorns Ríka, Þorleifssonar í Vatnsfirdi. Ektaqvinna Sýslumannsins Vigfúsa Þorsteinssonar, var Anna dóttir Ejólfs í Dal, sonar Løgmannsins Einars Ejólfssonar. Módir Aunnu var Helga dóttir Jóns Biskups Arasonar. En Ekta-húsfrú Løgmanns Einars Ejólfssonar var Hólmfrídur, dóttir Erlends Erlendssonar af Kolbeinstada-ætt, sem fyrr er gétid, og Gudrídar Þorvardsdóttur, Loptssonar ens Ríka. En Qvinna Jóns Vigfússonar og módir Þórunnar

Ríku,

Ríku, var Ingibiørg dóttir Sra. Biørns Gíslasonar Officialis og Prests ad Saurbæ í Eyiafirdi, bródr Arna Gíslasonar á Hlídarenda. Módir Ingibiargar var Málmfrídur, dóttir Sra. Torfa í Saurbæ, sonar Jóns Priórs á Mødruvøllum, Finnbogasonar Løgmanns, sem margopt ádr er talinn. Ektaqvinna Magnúsa Biørnssonar á Stórahóli var Sigrídur dóttir Jóns Biskups Vigfússonar á Hólum, hvørs ætt strax mun talin verda.

Þó nú sé talit flestallt Stórmenni Islands, sem lifat hefir á seinni Ølldum, og er Fødr-ætt vorrar í gudi burtsofnudu Frúr Þórunnar Olafsdóttur, þá er þó hennar Módur-ætt eingu ógøfugri; En vegna þess vídazt hvar er sama ættin beggia hennar Háedla Forelldra, þá fram í sækir, þá gétum vér um Módur-ætt hennar fáordari verit, med því at vísa til Fødr-ættarinnar, hvar sameginlegir Forfedr vorrar Velbornu sál. Frúr hafa verit taldir.

En



En hennar módir og Ekta-húſtrú Amtmannſins Hra. Olafs Stephánsſonar, er ſú at dygdum og qvennkoſtum nafnfræga enn nú lifandi, og ſinnar elſku-dóttur miſsir ſárt ſyrgiandi Háedla og Velborna Frú Sigrídur, dóttir Amtmanns Magnúſa Gíſlaſonar, Jónsſonar Biſkups á Hólum, Vigfúsſonar Sýſlumanns í Rángár-þíngi, Gíſlaſonar Løgmanns, Hákonarſonar Sýſlumanns í Rángárvallaſýſlu, ſonar Arna á Hlídarenda Gíſlaſonar, hvørs ætt fyrri er talin. Ektaqvinna Hákonar var Þorbiørg, dóttir Sýſlumanns Vigfúſa Þorſteinsſonar, er fyrr var nefndur. Ektaqvinna Løgmannſins Gíſla Hákonarſonar var Margrét dóttir Sra. Jóns Kráksſonar ad Gørdum á Alftaneſi; var ſá Sra. Jón hálfbródir Herra Gudbrands, en dótturſon Jóns Løgmanns Sigmundsſonar. Ektaqvinna Sra. Jóns Kráksſonar var Jardþrúdur, dóttir Þórólfs Ejólfsſonar frá Hialla, ſyſturſonar Øgmundar Biſkups í Skálholti. En

Mar-

Margrét, módir Jardþrúdar, var dóttir Erlendar Løgmanns, sonar Þorvardar Løgmanns, sonar Erlendar Løgmanns Erlendssonar af Kolbeinstada-ætt. En módir Þorvardar Løgmanns var Gudrídur Þorvardardóttir, Loptssonar Ríka. Ektaqvinna Sýslumannsins Vigfúsa Gíslasonar var sú nafnfræga Høfdíngsqvinna Katrín á Storólfshvoli, Erlendsdóttir Sýslumanns í Arnes-Sýslu, Asmundssonar, Þorleifssonar Løgmanns, Pálssonar á Skardi, er átti Solveigu dóttur Biørns Ríka í Vatnsfirdi, hvørra ættir hér at framan eru taldar. Qvinna Erlendar Asmundssonar á Stórólfshvoli var Salvør, dóttir Sra. Stepháns í Odda, og Þorgérdar dóttur Sra. Odds Halldórssonar í Gaulveriabæ. Voru forelldrar Sra. Stepháns Biskup Gísli Jónsson í Skálhollti og Christín dóttir Eyjólfs Mókolls í Haga, og Helgu Þorleifsdóttur Hirdstióra, Biornssonar Ríka í Vatnsfirdi. En Ektaqvinna Asmundar Þorleifs-



sonar á Stórólfshvoli var Hólmfrídur, dóttir Erlendar á Stórólfshvoli, sonar Jóns Hallssonar, nafnfrægs skállds og Sýslumanns í Rángárþíngi, og Hólmfrídar Erlendsdóttur af Kolbeinstada-ætt, til hvorrar þráfaldlega hefir talit verit. Ektaqvinna Erlendar Jónssonar á Stórólfshvoli var Emerentiana, dóttir þess nafnfræga Officialis og Prests á Breidabólstad í Fliótshlíd Sra. Þorleifs Eiríkssonar, bródr Sæmundar í Asi, hvors ádr er gétit. Ekta-hústrú Biskupsins Mag. Jóns Vigfússonar á Hólum, var Gudrídur dóttir Sra. Þórdar í Hýtardal, sonar Prófastsins Sra. Jóns í Hýtardal, Gudmundssonar á Hvoli í Saurbæ, Jónssonar Sýslumanns, Þórdarsonar. Módir þessa Jóns var Elen Pálsdóttir, systir Ögmundar Biskups í Skálhollti; en Ektaqvinna Jóns var Sigrídur, dóttir Halldórs Abóta Tirfíngssonar. Ektaqvinna Gudmundar á Hvoli var Þórunn dóttir Sigurdar Oddssonar í Búdardal, hvors ætt ádr er talin.

Ekta-

Ektaqvinna Prófastsins Sra. Jóns Gud-mundssonar var Gudrídur dóttir Gísla Lögmanns, sonar Þórdar Lögmanns, Gud-mundssonar. Var Ekta-hústrú Gísla Lögmanns Ingibiørg, dóttir þess þrátt-nefnda hofdíngia Arna Gíslasonar á Hlíd-arenda; En Ekta-hústrú Þórdar Lögmanns var Jórunn dóttir þess Ríka hofdíngia Sra. Þórdar í Hýtardal, Einarssonar Hirdstióra á Hofstødum, Þórólfssonar. En Ekta-hústrú Einars var Katrín, dóttir Halldórs ábóta Ormssonar. Ekta-hústrú Sra. Þórdar Jónssonar í Hýtardal var Helga dóttir Arna Lögmanns, sonar Odds Biskups í Skálhollti sonar Officialis og Prests ad Heydølum Sra. Einars Sigurds-sonar. Ekta-hústrú Biskupsins Hra. Odds Einarssonar var Helga dóttir Jóns Biorns-sonar á Holltastødum og Gudrúnar Arna-dóttur frá Hlídarenda, hvørra ættir fyrr vóru framtaldar. En Ekta-hústrú Arna Lögmanns Oddssonar var Þórdís dóttir Jóns á Siáfarborg, sonar Jóns á Okr-

 um,



um, Grímssonar á Ökrum Lögmanns, Jónssonar. Ektaqvinna Gríms Lögmanns á Ökrum var Gudný, dóttir Þorleifs Riddara og Hirdstióra í Vatnsfirdi, sonar Biorns Ríka. Ektaqvinna Jóns Grímssonar á Ökrum var Þóra dóttir Sra. Thómásar Eiríkssonar á Mælifelli, og Þóru dóttur Sra. Olafs í Laufási, og Helgu barnamódur Biskups Jóns Arasonar; var þessi Helga Sigurdardóttir, Sveinbiarnarsonar Officialis og Prests í Múla, af Lángs-ætt, eins og fyrr var sagt. Ektaqvinna Jóns Jónssonar á Siáfarborg var Sigrídur, dóttir Þorleifs Þorgrímssonar frá Lögmanns-hlíd, og Þórdísar dóttur þess nafnfræga Jóns Magnússonar á Svalbardi. Ektaqvinna Gísla Jónssonar í Másahlíd var Margrét dóttir Magnúsa Lögmanns á Ingialdshóli, sonar Jóns Sýslumanns á Midhúsum, sonar Magnúsa Arasonar Sýslumanns, og Þórunnar Ríku, hvorra beggia ættir ádr eru taldar. Qvinna Jóns Magnússonar var

Jórunn

Jórunn dóttir Magnúsa Løgmanns Biørnssonar, og Gudrúnar dóttur Gísla Løgmanns Þórdarsonar, hvorra ættir hér at framan eru raknar. Ektaqvinna Magnúsa Løgmanns Jónssonar var Gudrún, dóttir Þorgils á Brimils-vøllum, Jónssonar, (beggia Nefndarmanna í Snæfellsneß sýslu), Þorgilssonar. Ektaqvinna Jóns á Brimilsvøllum Þorgilssonar var Helga dóttir Sra. Skapta á Setbergi, sonar Sra. Lopts á Húsafelli, Þorkelssonar. En qvinna Sra. Skapta var Hallvør dóttir Sra. Ejólfs Grímssonar á Melum í Borgarfirdi, eins mikils-háttar Kénnimanns um Sida-skipta tímann. Ektaqvinna Þorgils Jónssonar á Brimilsvøllum var Ragnheidur dóttir þeß nafnfræga Nefndar- og merkis-manns Gísla, sonar Sra. Biørns í Saurbæ, í Eyiafirdi, bródr Arna Gíslasonar á Hlídarenda. Ektaqvinna Gísla Biørnssonar var Þórunn dóttir Hannesar í Snóksdal, Biørnssonar, Hannessonar Riddara og Hirdstióra, hvers



ætt fyrr er talin. Ektaqvinna Biørns Hannessonar var Þórunn dóttir þess nafnfræga Dada bónda Gudmundssonar í Snóksdal, Finnssonar frá Økrum, Péturssonar. Ektaqvinna Gudmundar Finnssonar var Þórunn dóttir Dada Arasonar, Dadasonar, er kalladr var Dalaskalli, og var námægdr Arna Biskupi hinum Milda. Ektaqvinna Dada Arasonar var Þorbiørg dóttir Bessa Einarssonar, Sýslumanns í Húnavatns þíngi, og Sæunnar Gudnadottur, Oddssonar Løgmanns Lepps, Þórdarsonar. Ektaqvinna Dada Bónda Gudmundssonar í Snóksdal var Gudrún systir Marteins Biskups í Skálhollti; voru þau børn Sra. Einars Skállds, Officialis á Stadastad, og Ingerídar Jónsdóttur systur Stepháns Biskups í Skálhollti. Ektaqvinna Hannesar í Snóksdal Biørnssonar var Gudrún, dóttir Olafs á Geitiskardi, sonar Jóns Sýslumanns í Húnavatns sýslu, Einarssonar, er var seinni madr Christínar dottur Gottskálks Biskups

á Hól

á Hólum, sem var af adallegum ættum í Norvegi.

Ekta-húsfrú Amtmannsins **Magnúsa Gíslasonar**, en Módurmódir vorrar sælu Frúr, **Þórunnar Olafsdóttur**, var Frú **Þórunn**, dóttir Gudmundar á Allfta-nesi, sonar Sigurdar Løgmanns, sonar Sýslumannsins Jóns Sigurdssonar, Jónssonar, Magnússonar; biuggu allir þessir hvorr eptir annan í Einarsnesi. Ektaqvinna Jóns Magnússonar var Þórlaug, dóttir hins ríka og nafnkunnuga Prests í Saurbæ ál Hvalfiardarstrønd Sra. Olafs Kolbeinssonar, er lifdi um Sida-skiptá-tímann hér á landi. Ektaqvinna Sigurdar Jónssonar í Einarsnesi var Ragnhilldur, dóttir Sra. Asgeirs á Lundi; átti hann 13 børn, er hann mannadi, og eptirlét þeim í arf 13. hundrud hundrada; hann var sonr Sýslumanns í Þverárþíngi Hákonar Biørgólfssonar á Fitium, Þorkéllssonar Vellíngs, hvorr einnin var Sýslumadr sama-

 stadar.



stadar. Ektaqvinna Sra. Asgeirs var Ingibiorg Gudmundsdóttir, systir Þórdar Logmanns, hvors fyrr var gétid. Ektaqvinna Jons Sigurdssonar Sýslumanns, var Ragnheidur dottir Hannesar Biornssonar í Snóksdal og Gudrúnar Olafsdottur, hvorra beggia ættir ádr eru taldar. Ektaqvinna Sigurdar Logmanns Jónssonar var Christín dottir Prófastsins Sra. Jóns Gudmundssonar í Hýtardal og Gudrídar dottur Gísla Logmanns Þórdarsonar. Ektaqvinna Gudmundar Sigurdssonar á Alftanesi var Gudrún dóttir þess stóraudugа Sýslumanns Eggerts á Skardi, sonar Sýslumannsins Biorns á Bæ á Raudasandi, hvors forelldrar voru Magnús Jónsson í Ogri, og Ragnheidur dóttir Eggerts Logmanns Hannessonar. Ektaqvinna Biorns Magnússonar, og módir Eggerts, var Sigrídur dóttir Dada á Skardi, Biarnasonar ogsvo á Skardi, Oddssonar, Thomássonar á Borg, Oddssonar. Var sá Thómás Oddsson bródir

Sig-

Sigurdar Oddssonar í Búdardal, hvørs fyrr er gétid, en átti Gudrúnu dóttur Vigfúsa Ríka á Borg. Ektaqvinna Odds Thómássonar var Cecelia, dóttir Orms í Saurbæ á Kialarnesi, sonar Einars Hirdstióra á Hofstødum, Þórólfssonar. Ektaqvinna Biarna Oddssonar á Skardi var Sigrídur dóttir Þorleifs Løgmanns á Skardi Pálssonar; En ektaqvinna Dada Biarnasonar á Skardi vár Arnfrídur dóttir Benedicts Ríka á Mødruvøllum. Ektaqvinna Eggerts Biørnssonar á Skardi, var Valgérdur, dóttir Gísla Løgmanns Hákonarsonar.

Er af øllu ádrtédu audsætt, at í næstu 400 ár, hafa þær ættir hér á landi stærstar og gøfugastar verit, og framleidt þá ædstu Landshøfdíngia, er vor í Gudi burtsofnada sál. Frú **Þorunn Olafsdóttir** var afkomin. En villdu menn (hvad hægt er) eins rekia sømu Forfedra-tølu hennar upp eptir þarfrá til fornalldanna, yrdi sú



ættar-tala eingu minni, og nær allt til víd-, frægustu Kónga og Jarla á öllum Nordurlöndum.

En svosem ættgöfgi er at vísu einn gódr hlutr, svo er hún þarámót einúngis þeim til blygdunar, sem verda ættlerar. Á hinum er hún eins og glampi edr forgyllíng, sem hallda bid ættar-sómanum, og taka hróss-verdra lángfedga dygdir og mannkosti í arf; í hvorra tölu var vor sæla Frú **Þórunn Olafsdóttir**, máttu allir, er hana þecktu, játa at hennar minzti kostr var ættgöfgin, og at þat hafi réttmæli verit, vottar eptirfylgiandi hennar sönn lífssaga:

Hún var, eins og ádr er sagt, fædd í þennan heim ad **Leyrá** í Borgarfirdi þann 6ta dag Júlii mánadar 1764, og strax þar eptir í skírninni endurfædd til lifandi vonar, þá hún og fécк nafn sinnar þá lifandi Módur-módur, hvorrar stóru dygdir og mann-

kostir

kostir fóru svosem í arf og fylgdu nafni, eptir því sem árin hiá Frú Þórunni Sál. Olafsdóttur fiolgudu. J sinna Velbornu Forelldra húsum óx hún upp, og mentadiz í ollu því, er qvennmann af þeirra háa standi prýda kunni, med mestu og bestu framför í kunnáttu til munns og handa, ásamt odrum dygdum, einkum Gudhrædslu, sem er grundvollr allra hinna dygdanna, liúflyndi, lítilæti, medlídan vid fátæka og aumstadda, og fleirum, hveriar ei þurfa upp ad teliaz, því einga þarf þar frá at skilia; Þar til guds nádar-ríkri forsión þócknadiz, at láta hana, á hennar 16da alldurs ári, þann 28da Júnii 1780, inngánga Ektaskap med Háedla, Háæruverdugum Biskupinum þessa Stiptis Hra. Hanneſi Finnsſyni. Þetta hionaband blessadi Gud med einum Lífs-ávexti þann 23ia Novembr. 1784, er í skírninni fèck síns Háedla Módur-fødurs nafn Olafur, en í Gudi burtsofnadi þann 11ta Decembr. sama árs; hvílir hanns

líkami



líkami í Innrahólms kyrkiu, á hvør-
ium gardi hans Háedla Forelldrar þat ár
høfdu vistar-veru, hiá vorrar í Gudi sælu
Frúr Þórunnar Velbornu Forelldrum,
eptir þat sá stóri og minnilegi jardskiálfti
hafdi kollkastad flestum húsum hér á Bisk-
ups gardinum, hvad øllum oss er í ferska
minni. Med einum ødrum syni blessadi
Gud þetta hiónaband þann 11ta Janúarii
næstlidna, hvørr sonr í heilagri skírn var
og nefndur Olafur; en andadiz í nú yfir-
gángandi bólusótt þann 14da Febrúarii
næstlidna, viku eptir andlát Módur sinnar,
á hvørrar ørendu brióssti líkaminn hvílir, í
sømu kistu til jardar lagdr hér fyrir vorum
augum.

En um Banasótt og tímanlegann af-
gáng sál. Frúr Þórunnar Olafs-
dóttur, er þat í stytzta máli at segia: at
eptir þat hún, eins og strax var sagt, hafdi
dag 11ta Jan. næstlidna í hægasta máta í
heiminn fædt sinn nefnda son, stirktiz
hennar





hennar heilsa bædi fliótt og vel, þartil bólusóttin yferféll hana þann 24. Janúarii med geysi-verkium, er helst lögduz til sömu líkamans parta, og jódsótt plagar at giora; hvar af merkia má, ad jafnvel þó þat sæla Guds Barn sýndiz heilbrigd vordin eptir hennar barnburd, hafi þó bólan fundit þar veikazt fyrir, og yfirbugad náttúrunnar krapta, líka sem sama bóla einnig var med flesta og mesta slag. Samt héllt bólusóttin sínu nátturlegu edli, þó þúng væri, allt til daudadags. Þann 1ta dag Febrúarii óx og elnadi sóttin enn meir, svo þat sæla Guds Barn þócktiz siá og finna at hennar hérvistar dagar mundu þá innan skamms enda taka; og jafnvel þó þeir, sem hiá henni voru, hefdu enn þá góda von um hennar leingri lífdaga, þá var hún samt stödug á þeirri meiníngu, sem sídan rættiz, hvar fyrir hún og girntiz at stirkia sína trú med medtekníngu þess heilaga Alltarisins Sacramentis. En þat drózt þó undan í fyrstu, meir fyrir annara fortölur, er álitu

hana



hana hvorki krapta-litla né lángt leidda, helldur enn hennar vilia. Sídan minntiz hún nockrum sinnum á þat sama; En vegna þess hún fann þá hiá sér oflítinn og offallvalltann sinnis-styrk, eptir því sem hún siálf sagdi, þá villdi hún líða þess, ef Gudi hefdi þócknaz ad lina sóttina, er hindradi hennar, annars vel undirbúnu, sálu frá óhvikulum eptirþánka; eda og helldur láta þat hiálída, helldur enn sálin af siúkdómi líkamans ofurlida borin, gæti ecki svo stoduglega og alvarlega, sem þat goda Guds Barn girntiz, þeinkt um og íhugat þat nádar-medal, er einasta skylldi vera andar-styrkíng og sálar-nautn. J þess stad beiddi hún degi þareptir, alla nærverandi frá sér at gánga, nema sinn heittelskada Ektamann, í hvors barm hún ætíd var von, at útausa øllu því, er henni þokti sig mest umvarda bædi í líkamlegum og andlegum efnum. Vid hann hafdi hún alla þá qvolld-voku hiartnæmt alhuga-samtal og bænahalld um hennar sálar ástand, og þann

sam-





samfund hennar og sálar-brúdgumans Jesú, sem hún innan skamms var fullviss ad verda mundi. Var hún þá sem öruggasta trúar-hetia, er at sönnu siálf eckert fullkomit hiá sér þeckti; en vegna síns Endurlausnara forþénustu, bad óskélkud daudann koma, nær sem Gudi þóknadiz ad flytia sig til eylífrar sælu, huggandi sig vid, þar mundi hún fá aptr ad siá sinn Ektamann, Son og Forelldra, hvöriar persónúr hún í lífinu svo heittelskadi, og hvöriar voru þeir einustu af jardneskum hlutum, er hún í þat sinn, þó med fáum ordum, ámintiz. Þareptir lét hún til sín kalla hennar elskulegann bródr Hr. Biorn Olafsson, og bad hann skila til þeirra hiartkiæru Forelldra audmiúkustu heilsun og hiartans þacklæti fyrir þeirra stóru ást og dygdaríki vid hana. En annars allt þat qvölld, og margopt sídan, einkum þá hennar hiartkiæri Ektamadr var einn hiá henni, taladi hún alleina um eylífdina, med þvílíkri blídri hugar-hreysti og stadfastri trú, sem sýndi sig at vera æfda

og



og eflda af lángvarandi sannri Gudhrædslu og óskaddadri samvitsku, en verkada af heilags Anda íbúandi náð. Og þó siúk-dómrinn, sem þremr dogum fyrir andlátid sneriz upp í þúnga forrotnunar-kølldu, opt og tídum lengi tæki frá henni rænunnar óhindrada brúkun, þá andvarpadi hún þrálega milli adsvifanna til síns Guds og Endurlausnara um hiálp og miskun sálu sinni til handa; beid svo þolinmódlega þess tíma, á hvørium Drottinn, lífsins og daudans Herra, kalladi hana, þá hún hafdi fulla rænu þann 7da Febr. næstlidins mánadar, um sólarlagsbil edr hálfri fiórdu kluckustund eptir middag, til sinnar sælu og eylífrar dýrdar frá þessu stundlega mædu-fulla lífi.

Sál. Frú **Þórunn Olafsdóttir** var at líkamans vexti med hærstu qvenn-mønnum, og þareptir ad allri annari at-giørfi líkamans og sinnisins. Brádþroska var hún, þegar sextán vetra at alldri algiør, eptir

eptir sem almennazt kallat er, í hvoriu þvî hellst, er qvennmann af háu standi kann at prýda.

At segia hennar sinnislag med einu ordi, þá var hún kappsom til alls, sem var gott og sómasamlegt; gudrækin frá barnæsku, hafdi hún eckert stærra yndi, enn at hafa Guds ord um hond, í hvors þeckíngu og skilníngi hún var flestum betr mentud; kunni hún alla almennilega Psálma-flocka, messu-saung, og fiollda annara Psálma utan bókar, hafandi sérlega lyst og fliótt næmi skfelldlega þar vid at bæta. Frómlundadra, sannaudmiúkara, stodugra, einlægra og ollum velviliadra hiartans þel var traudlega at finna, svo henni var allt smiadr, hræsni og flærd mesti vidbiódr. Sannleika þarámót elskadi hún yfir allt, og reiknadi fyrir prettvísi, ef hann væri ecki svo í botn og grunn sagdr, at jafnvel þeim einfaldasta væri ómogulegt vid hann at dyliaz. I ordum sínum hin lastvarasta og óhlutdeilin,

 

deilin, affakadi hún einlæglega allt hvad hún gat, og var ætíd hin fúsasta til at leggia hvorn hlut út til hins besta vegar, sem mögulegt var; En hvar hellst samvitska hennar, sem ætíd var samfara med glöggri og gégnumþreyngiandi skynsemi, sá at annat bió undir, enn sýndiz, var hún bersögul og einlæg, samt jafnan med soddan skynsemi, hógværd, stillíngu og liúflyndi, at enginn gat því reidst edr látid sér þad mis-þócknaz. Reidi og heipt var svo lángt frá henni, at einginn vissi hana nockurn-tíma reidst hafa. Ofundsýki og ágirnd voru henni eins fiarlægar, því af hvorugum þeim lesti hafdi hún minzta keim. I hússtiórninni greind og adgætin, stýrdi hún svo stillilega, og liúflega hvörium hlut, at enginn hennar undirgéfinn áleit sig at hlýda henni vegna skipananna, helldur kappkostudu allir af elsku, virdíngu og þacklæti at giöra henni allt til vilia. I umsióninni þrifin, í útréttíngum fliót, síed og drífandi; í hagtæríngu jafnt ör, sem nærgætin, velkunnandi,

og

og hagnadarsøm. Í øllum útlátum orlát og høfdínglega sinnud, gaf hún opt bædi stórar vingiafir, og einkum lét hún alldrei nockurn fátækann edr naudstaddann hiálparlausann frá sér fara. Jafnadargéd hennar var svo stødugt, at í medgánginum bar lítid á gledi hennar, nema þat hún lét sitt þacklæti í liósi vid Gud edr góda menn, svo sem hún ætíd var hin þacklátasta, og gódgiørda minnug; en í mótlætinu reyndiz hún þolgód, hræddiz at sønnu háskann fyrr enn hann nálægdiz, en þá hann kom, var hún ørugg og úrræda-gód. Í sinni umgengni var hún glød og gódsinnud, liúf og lítilát. Í øllu sínu athæfi greind og gódvilind; røksamleg med blídu; fliótskorp, og snar-ráð, en alldrei brádrædin; rádholl, trygg og stadføst í vináttu; frændrækin í mesta lagi; óslítanleg frá sérhvoriu því, er hún þeckti at vera gott og skylldu sína; en tilleidíngasøm til alls, er hún þeckti rétt og sómasamlegt, hvar í hennar skarpvitra skynsemi og gudhrædsla ætíd voru



hennar óhultir leidtogar. Alla sanna prýdi, snilld og snotrleik elskadi hún í hvorium hellst hlut, en hatadi tilldran, priál og fordild, sérílagi stollt og hégómadýrd. I handydnum nettirk og trúvirk, tók hún sér eckert fyrir, sem hún ei vandadi og leysti vel af hondum, hvort hennar sama sinnislag lét sig í liósi í ollum hennar athofnum. Einkum skrifadi hún þeirra qvenna nettast, er henni voru hér á landi samtída. I saung var hún raddgód og lagsæl, kunni einnin nockud uppá hliódfæri, hvor list hér þess vegna nefniz, at hún í þessu landi er svo miøg sialdgæf ordin; þó eru enn af henni, veniu framar, meniar hiá afkomendum sál. Sra. Stepháns Olafssonar, er var í Vallanesi.

I allri sinni stétt og hegdan var hún sannkallad skínandi og brennandi liós. Hún var sú besta Ektaqvinna, — Módir, — Dóttir — og Húsmódir.

Þessar





Þeſsar og adrar dygdir og mannkoſtir prýddu hana, án þeſs at nockurr løſtr ſpillti um fyrir þeim. Var hún líka ſvo æfd og fullgior ordin í alls-kyns qvenndygdum, og qvenna atgiørfi, eins og þær konur, ſem beſt verda á full-komnaſta alldri. En vor í Gudi ſæla Frú **Þórunn Olafsdóttir** var enn ei 22 ára at alldri, þá Gud kalladi hana úr þeſsum heimi. Þeſs ſtærri er því ſøknudrinn þeirra eptirlifándi, eink-um hennar Háedla Háæruverduga eptir-látna Ektamanns, ſem ei einaſta nú má ſiá til moldar lagda þá adſtod, unun og eptirlæti, ſem hann hér á jørdu meſt elſkadi; helldur og þar á ofan líta lagd-ann í ſømu kiſtu og grøf, þeirra einaſta eptirlifandi ſon, ſem ei nádi ſvo háum alldri, at ſýnt gæti, at hann hefdi í arf tekid þær ótal dygdir, ſem hanns Háedla Frú Módir var medgiædd. Gódr Gud ſtirki hann og gledie þann Háedla góda Herra, og þeirrar, háſælu Frúr

 Háedla



Háedla Velbornu Forelldra, med síns Anda krapti, er innsigli þann sannleika í þeirra hiørtum, at allt sé þeim til gagns og góda, sem Gud elska!

Þat þridia andvana lík, sem hér var nú í sømu grøf til jardar lagt, var þess ættgøfuga únga manns **Olafs**, sonar þess Veledla og Hávísa Hra. Víci-Løgmanns **Magnúsa Olafssonar**, og Veledla Frú **Ragnheidar**, dóttur þess Háedla og Háæruverduga Hra. Biskups og Sacræ Theologiæ Doctoris **Finns Jónssonar**, hvørr á sínum háa alldri, nú hefir þá sorg, at standa yfir greftri einnar heittelskadrar Sonarkonu og tveggia barnabarna. Adra Forfedur **Olafs** sál. **Magnússonar** leyfir ei tíminn upp at telia; þess gioriz ei helldur þørf, þar øllum oss er kunnugt, at hann var af stærstu ættum, af hvørium og margt Hofdíngsmanna rétt nú var fyrir Ydar kiærleika upptalit.

En




En sál. Olafr Magnússon er fæddr í þennan heim hér at Skálhollti þann 18da dag Febrúarii 1785, og strax eptir í skírninni endrfæddr til at vera Guds barn og samarfi Jesú Christi; Ox hann svo at alldri, stærd og skynbragdi, at hann var gledi sinna Veledla Forelldra, og líklegr til besta mannsefnis, ef lengri lífdaga hefdi ordit audit. En Gudi alvísum þócknadiz at kalla hann til sinnar dýrdar eptir 7. Daga stránga bólusótt, þann 8da Febrúarii næstlidna; hrósar nú hanns sál sigri frammi fyrir stóli Guds og lambsins sýngiandi Haleluja! Lofadr sé Gud fyrir hanns frelsi frá mædu þessa auma lífs!



